Hófid er beſt í hvörjum leik.
Hvad elskar ſér líkt.
Hægra ad kénna heilrædin enn halda.
Illur fengur ílla forgengur.
Illur á ílls von.
Kapp er beſt med forſjá.
Kornid fyllir mælirinn.
Lengi man til litillar ſtundar.
Líkur ſækir líkann heim.
Lítid er úngs manns gaman.
Madur er manns gaman.
Mikid skal til mikils vinna.
Mátinn er marghæfaſtur.
Mjór er mikils víſir,
Mörg eru manna mein.

# 20. Vetrar Vika.

Nú kemur nýtt og nýtt; skodid, Børn! ennþá nýtt letur; skamt verdur ydur góðs á milli. Þetta heitir nú Cúrsiv, eda Snarhandar-letur, og brúkast vid manna og merkis nøfn í látínskum letur-gjørdum, eins og Schwabacher stafirnir í algengu bóka-letri. Gud gefi mjer lyst til gott ad l.

*A a B b C c D d E e F f G g H h*
*I i J j K k L l M m N n O o P p*
*Q q R r S ſ s T t U u V v W w X x*
*Y y Z z Þ þ Æ æ ö œ.*

*Framhald Málsháttanna.*

*Náttúran er námi ríkari.*
*Nytur er hvörr sig fædir.*

*Námfús ydni vinnur allt med vidleitninni.*
*Opt má lítid laglega fara.*
*Opt má satt kyrrt liggja.*
*Opt kann gódann grand ad benda.*
*Opt hafa litlar vonir ad gódu vordid.*
*Rétt er best en rángt er verst.*
*Raunin er ólygnust.*
*Sannleikurinn er sagna bestur.*
*Sjaldan veldur einn þegar tveir deila.*
*Sjaldan er bára stök.*
*Sjaldan fer betur þá breytt er.*
*Svo verdur ad taca ár sem þad gár.*
*Tamur er barns vaninn.*
*Tvennt er í hættu hvörri.*

*Uti er þraut þá unnin er.*
*Ulfur er ſá med úlfum venſt.*
*Vandi fylgir velſemd hvörri.*
*Vitid er verdi betra, þo varla fái þad allir.*
*Vida er mannsins gétid.*
*Verkid lofar meiſtarann.*
*Verkin ſyna merkin.*
*Verdur er verkmadurinn launanna.*
*Yduin eykur alla ment.*

* * * * * *

Þad úngur nemur, gamall hefir.
Þad er litid vit, ad gángaſt fyrir lit.
Þad er ekki allt gull, ſem glóir.
Þeim er mein, ſem í myrkur rata.
Þolinmædin þrautir vinnur allar.
Æran er meſt verd.

Öl er annar madur.
Öl segir allann vilja.
Öllum er batinn bodinn.
Öllum kann yfir ad sjást.

## 21. Vetrar Vika.

Þid erud nú þegar, elsku Börn! komin svo vel í stöfunina med ad qveda ad og taka saman, ad þid þurfid úr þessu fá ad vita fáeinar fastar reglur ad styđjast vid; enda koma þær þarna;

### Stöfunar- og Lestrar-reglur:

Ven þig strax, Barnid gott! á fallegt stöfunar-lag, það býr undir gott lestrar-lag á sídan. — Brýn vel raustina, svo hún sé hrein og hvell, ecki dymm eda murrandi. — Nefn hvern bókstaf svo skírt,

sem gétur, og út-tala adqvædin heldur snøggt enn seint, tak þau, sídan stillt saman í fyrstu, uns ordid er komit heilt, ein brekka hvalt eptirþánka. — Hvørt adqvædi, þegar því fyrsta sleppur af tveggja og fleiri adqvæda ordum, eiskar gjarnast í voru máli ad byrja á hljódstaf, t. d.: stafsur, pilt-ur bækl-ing-ur; nema ordid sé samsett af fleirum ordum, t. d.: blad-sída, tré-skeif, mat-bord. — Varast áttu strax vid adqvædi og ord ad draga seim, og hvørn annann kjæk, því hann gjörir lestur á sídan óáheyrilegann; þessvegna géta ecki allir saadst lesa vel, þó lesa kunni. — Þegar til lestrar kémur, þarf ad laga rómmn eptir efninu, lesa med athygli, stillt og greinilega, og í því falli vandlega athuga eptirfylgjandi

# Helztu Skilmerki
## Orda og Greina á milli.

, Strik (Comma), sem er hid minnsta skilmerki, og þýdir: ad hika skuli lítid eitt vid í framburdinum.

; Hálfpúnktur (Semicolon), adgreinir þánka, þó í somu meiníngu eda klausu og þýdir: ad staldra skuli lengur vid eda jafnvel anda.

: Tvípúnktur (Colon), bendir til meiníngar, sem vikid er á ad eptirfylgi, og skal hér því anda, t. d.: hann tók þannig til máls:

. Púnktur (Punctum), er hid mesta þagnarmerki, og synir ad klausan sé á enda.

? Spurníngar-merki, (Qvæstio), brúkast ad endadri spurníngu, t. d.: hvad vard um qvedid þitt?

! Upphrópunar, undrunar, eda ávarps-merki (Exclamatio), eptir sem á stendur, t. d.: bid þú nú vid! Gódurinn minn!

= Samtengingar-merki (Devis), brúkast þegar ordi er skipt milli lína, eda þad er sett saman af tveimur, t. d.: penna-sjødur, støfunar-qver.

() eda [] Innilokunar-merki (Parenthesis), innsirklar þánka, sem heyrir til frekari upplýsingar efninu, og sem þessvegna er skotid inn meiníngunni, eins og sjest af framandi nefnum Skilmerkjanna hèr ad ofan.

— Þánka-strik (Pause), brúkast einum þegar hastarlega er vikid frá einu rædu-efni til annars — til adgreiníngar í samrædum — á millum stuttra

sundurlausra þánka — sjá hér að framan bls. 23-25, 28-30, 44-47, 59, 60. — og líka brúkast það margopt fyrir innilokunar-merki.

' Frándáms-merki (Apostrophus), sýnir að hljóðstafur sé úrfelldur, eða egi úr að fellast; t. d.: O sál' ódauðleg mín! ebld' eg heill þína?

Merk: Auk þeirra hjer töldu Skilmerkja, eru:
" Tilvitnunar-merkið (Hyphe),
;; Itrekunar-merkið (Repetitio) og
§ Greinaskipta-merkið (Paragraph.)

## 22. Vetrar Vika.

Nú endar Góu mánuður á Mánadaginn kemur, og þá eru einar 4 vikur rúmar til Sumars; neyt-

um ockar því vel þeßa vita, kjæru Born! Hjer eru ennþá nockrar adgætsluverdar

## Lestrar-reglur:

I einstökum Ritum finnst au brúkad fyrir ø, t. d.: sauk fyrir søk, aullum fyrir øllum, etc.

Au, í framandi túngna nöfnum og ordum, lesist sem á, t. d.: Author eda Auctor, les: Ator, áktor; Augustus, les: Agústus; Paulus, les: Pálus; Saul, les: Sál, etc.

C fyrir framan e, i, y, æ, er lesid fyrir S, t. d.: Cedrus (Vidar tegund), Cerimonia (Tída-stick), citera (vitna til), Cicero (manns nafn), Cyrus, Cæsar, Lucæ, Marci, les: Sedrus, Serimonia, sítera, Siseró, Sýrus, Sesar, Lúse, Marsi. Standi C þarámóti fyri framan a, o, u, er þad lesid fyrir K, t. d.: Cain, Caution (Borgan), Comma, Colon, Curator (Formyndari), Curere (lækna), les: Kain, Kátsion,

Komma, Kólan, Kúrator, kúrere, rett eins og Minnisvísan áqvedur:

C fyri framan o, u, a,
Eins hljódar og væri K;
En fyri framan e, æ, i,
Sem Essi skalt þú qveda' ad því.

J ordum sem koma af Fronsku, lesist ou fyrir ú, t. d.: Courant (gángmyndt), Cours (verdhæd á peníngum), Couvert (umslag), Tour (vegur), les: Kúrant, Kúrs, Kúvert, Túr.

Ph í upphafi ords lesist sem F, t. d.: Philippus, Pharao; les: Filippus, Faraó. Jmidjn ordi sem ff, t. d.: Sophia, Stephan, l. Soffía, Steffan; en í enda sem einfaldt f t. d.; Asaph, Joseph, l. Asaf, Jósef.

T blýstrar, þegar þad stendur í midjn ordi fyri framan i og annann hljódstaf til, t. d.: Marti-

 us,

us, Lectio, Pontius, Auction (uppboð), Visitatio (Skoðunar:för), les: Martsius, Lektsia, Pontsius, áktsíon, Visitatsía.

X lesist sem Ks, t. d.: Xerxes, Xantippe, les: Kserkses, Ksantippe.

Z úttalast eins og seitt-S í upphafi, t. d.: Zion, Zebedæus, les: Sion, Sebedeus, en í miðju optar sem ds, t. d: Nazáreth, l. Nadsaret.

Æ sem e, og œ sem ø, t. d: Æneas, Irenæus, Oeconomus, Fœbus, les: Eneas, Irenes, Økónómus, Føbus.

## Bönd og Skammstafanir:

| | |
|---|---|
| Al. Aln. les: alin, álnir. | Fð. les: Fjórðúngur. |
| Am. les: Amen. | H. l. heilagur. |
| Bls. les: Blaðsíðu. | Hra. les: Herra. |
| Cap. l. Capitula. | Hðr. les: Hundrað. |
| &c, etc, ꝛc. l. et cetera. | Lpð. les: Lispund. |

| | |
|---|---|
| Mk. les: Mark (16 ß). | Rbß. l. Ríkisbánkaskild. |
| m. m. les: med meira. | Skpd. l. Skippund. |
| Mr. les: Monsieur, útalast Mosjø. | Sgr. l. Seigneur, útalast: Sennjør. |
| No. les: Númer. | Sra. les: Síra. |
| N. V. l. Nafn verd. | St. les: Sánkte. |
| o. s. frv. l. og svo framvegis. | S. V. l. Sylfur verd. |
| Pag. les: Pagína. | ß. les: Skilding. |
| Pd. les: Pund (32 lód). | t. d. les: til dæmis. |
| Rdlr. l. Ríkisdalur. | þ. á. l. þeßa árs. |
| Rbd. l. Ríkisbánkadal. | þ. e. les: þad er. |
| | þ. m. l. þeßa mánadar. |

Merk: J eldri bókum brúkast æ fyrir á og w fyrir ú, t. d.: ængur, þwngur, les: ángur, þúngur; m̃ gyldir vid mm, og ñ vid nn; ꝛ eda ꝵ brúkast fyrir ur, t. d.: kaldꝛ vetꝵ, les: kaldur vetur; z gyldir vid s og annañ bókstaf til, svo sem: þez, lanz, telz, les: þess, lands, telst; breyttur bókstafur í

midju eda enda orðs, gyldir við tvo óbreytta sama heitis, t. dæm.: HaLur, SveiLL, les: Hallur, Steinn.

## 23. Vetrar Vika.

Til fullkomins lestrar heyrir ennþá, ad þeckja Tölurnar, þeirra myndir og gyldi; þad er yckur því ætlad Viku-verk í þetta sinn, svo þid gétid talid áfram bókstafina, og vitad hvad þeir eru margir; kallast þessar Tölu-myndir Siffru-tala, eda Siffrur, og eru Tíu.

| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 | 9 | 0. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| einn | tveir | þrír | fjórir | fimm | sex | sjö | átta | niu | núll |

Merk: Af því núllid merkir alls eckert, þegar þad stendur eitt sér, verdur ad setja einhvörn merkjandi tölustaf af hinum nìu fyrir framan

þad, og þá eykst þess sama gyldi um svo marga tugi eda tiu, sem sá stafur þýdir, t. d. : setji eg 1 framan 0, verda þad einir tiu, en setji eg 2 á sama stad, verda þad 2 tugar eda tuttugu, o. s. frv.; höldum nú áfram!

| 10 | 11 | 12 | 13 | 14 | 15 | 16 | 17. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| tiu | ellefu | tólf | þrettán | fjórtán | fimtán | sextán | sautján |

| 18 | 19 | 20 | 21 | 22 | 23. |
|---|---|---|---|---|---|
| átján | nítján | tuttugu | t. og einn | t. og tveir | t. og þrír |

| 24 | 25 | 26 | 27 | 28. |
|---|---|---|---|---|
| t. og fjórir | t. og fimm | t. og sex | t. og sjö | t. og átta. |

Nú er komin bókstafa talan, teljid nú sjálf eptir á fingrunum — þad stendur heima — 2 fingur gánga af í þridja sinni — nú áfram!

| 29 | 30 | 31 | 40 | 42 | 50. |
|---|---|---|---|---|---|
| t. og níu | þrjátíu | þrját. o. einn | fjörutíu | f. o tv. | fimtíu. |

53 60 64 70 75.
fimt. o. þrír | sextíu | sext. o. fjór. | sjøtíu | sjøt. o. fim.

80 86 90 97 100.
áttatíu | áttat. o: sex | níutíu | níut. o. sjø | hundrad.

108 109 110 111.
hundr. o. átta | hdr. o. níu | hdr. o. tíu | hdr. o. ellefu.

212 313 414.
tvøhdr. o. tólf | þrjúhdr. o. þrett. | fjøgurhdr. o. fjórtán.

515 616 717.
fimhdr. og fimt. | sexhdr. og sext. | sjøhdr. og sjøtján.

818 919 1000.
áttahdr. og átján. | níuhdr. og nítján. | eitt þúsund.

1001 1102 1 8 1 7.
eittþús. o. eim. | 1 þús. 1 hdr. o. 2. | 1 þús. 8 hdr. sjøt.

Merk:

Merk: Hjer af sjáid þid, Børn góð! að eptir þvi sem hvørr tølustafur gengur lengra fram frá hægri til vinstri handar, eptir því eykst hans gyldi tinsinnum meira, enn hins undangángandi, t. d.: 1111, þýdir sá fyrsti 1, eina einingu, sá annar 1, nær vinstri hendi, tíu einingar eda 1 tug, sá þridji 1 næst sømu hendi, tíu tugi eda tiutíu einingar, og fjórdi 1 tiutiu tugi eda þúsund einingar, sem er lesid: Eitt þúsund, eitt hundrad og ellefu. 12,345, les: Tólf þúsund, 3hdr. fjørut fim. 123,456, l. Eitthdr. 23 þúsundir, 4 hdr. 56. 1,000,000, l. 1 millión, eda þúsundsinnum þúsund, eins og kennir hin gamla

## Minnis-vísa:

Sig (einingu) mest merkir hinn fyrsti
Mann, tíu qvad annar,
Hundrad þydir hinn þridji (tølustafur);
Þúsund fjórdi (stafur), vel grunda;
Tíu þúsund tel fimta (staf),
Tel hundrad þúsund sjötta,

Sjöunda mér Klerkar kénndu,
Ad kalla Þúsund Þúsunda (Millión).

Til er og annad Tølu-letur, uppfundid af Rómverjum, sem kallast: rómverst Tala; þess myndir eru einúngis sjø bókstafir, nefnilega: I þýdir einn, V fimm, X tíu, L fimtíu, C hundr. D fimhundrud og M þúsund; eptir því sem bókstafir þessir eru samansettir, verdur gyldi þeirra, eins og þid sjáid á eptirfylgjandi

Tølu-rødum:

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| *I.* | *II.* | *III.* | *IV.* | *V.* | *VI.* | *VII.* | *VIII.* | *IX.* | *X.* |
| 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. |
| *XI.* | *XII.* | *XIII.* | *XIV.* | *XV.* | *XVI.* | *XVII.* | | | |
| 11. | 12. | 13. | 14. | 15. | 16. | 17. | | | |
| *XVIII.* | *XIX.* | *XX.* | *XXI.* | *XXIX.* | *XXX.* | | | | |
| 18. | 19. | 20. | 21. | 29. | 30. | | | | |

XL. L. LX. LXX. LXXX. XC. C.
40. 50. 60. 70. 80. 90. 100.
CC. CCC. CD. D. DC. DCC. DCCC.
200. 300. 400. 500. 600. 700. 800.
CM. M. MCI. MCCII. MCCCIII.
900. 1000. 1101. 1202. 1303.
MCDIV. MDV. MDCVI. MDCCVII.
1404. 1505. 1606. 1707.
MDCCCXVII. 1817.

Merk: Hjeraf sjest: ad smærri talan eykur vid eptir hina meiri, en minkar hana, ef fyri framan stendur, t. d.: í IV: hjer ad ofan, minkar V um 1, af þvi I stendur fyri framan, en eykur sömu V um 1 í VI, af þvi I stendur þar á eptir; eins er í IX (9), XL (40), XC (90), CD (400) og CM (900).

## 24. Vetrar Vika.

Fyrst yckur géck vonum framar vel ad telja úr Tölum, vikuna sem leid, þá er yckur, sje eg, ætlad þetta, ad nema hid fyrsta og einfaldasta undirlag í Reikníngi. lítid á! þad er ágæt ment.

Yfir höfud géfast fjórar Reiknings-tegundir, sem eru: ad leggja saman, draga frá, margfalda og deila. Nú skulum vid fyrst reyna til ad

### Leggja saman.

Þú áttir í stockinum þínum 4 skéljar.
hann Asbjörn gaf þér . . . 6 —
hve margar áttú þá nú? alls 10 skél.

Lít nú á þær tvær tolur, sem standa þarna hvør upp af annari ofan strikid, seig svo: 6 og 4 eru

10, drag þverstrik undir, og skrifa 10 þar fyrir nedan; það heitir að leggja saman.

Nú viljum vid líka reyna til ad

## draga frá.

Það er þvert á móti því að leggja saman, til dæmis:

Í stockinum þínum áttu nú þegar 10 skl.
af þeim gefur þú systur þinni . . 5 —
hvad verda þá margar eptir? svar: 5 skl.

Nú segir þú: 5 frá 10, verda eptir 5, sem þú sjer að standa fyri nedan strikið.

Vid Frádragníngu verdur ætíð að líta eptir því, að minni talan, sem dragast á frá þeirri meiri, standi rétt undir þeßari; því audsært er, að ecki verdur dregin nema minni tala frá meiri.

Nú skulum við vita hvornig gengur með hina 3ju reikníngs tegund, sem heitir að

## margfalda:

Fyrst þer þykir svo vænt um skéljar, ætla eg nú að géfa þer í 3 daga, 4 skallegar skéljar hvorn dag; en þú átt í staðinn að segja mér, hvað margar verði skéljarnar til samans, er þú þannig færð.

skrifa með kritarmolanum þínum skeljatöluna, sem þú átt von á dag hvorn, þær eru 4, þar undir dagatöluna, sem eru 3, drag þverstrik undir, og seg: 3svar 4 eru 12, er þú skrifar neðan strikið, sem sýnir summu skeljanna, jeg alls á að gefa þjer. Vel og gott! þú skalt líka fá þær, takist þjer ecki miður með þá síðustu Reiknings tegundina, sem hjer kemur á eptir og kallast:

| | |
|---|---|
| 4 | skéljar. |
| 3 | dagar. |
| 12 | skéljar. |

# Deiling.

Hún er raunár ecki annad enn Frádragníng, en fljótari og fyrirhafnar minni: Jeg vil, t. d.: gèfa þèr og hinum börnunum bádum, 12 jardepli ad steikja, og skipta þeim í 3 jafna stadi milli yckar, hvé mørg epli mun þá hvort yckar gèta fengid? svar: 4, og set nú dæmid upp þannig:

```
3) 12 (4
   12
   ——
   00
```

Fyrst skrifa eg 3, og set vid þá hálfhríng, þad er barna-talan eda Deilirinn; þar næst 12, sem er epla-talan eda Deilandinn, og segi: 3 í 12 hefi eg 4sinnum, set nú umvendtann hálfhríng fyrir aptan 12, og skrifa þar 4, sem er qvótinn eda hlutatalan, hvørja eg margfalda med deilirnum, og segi: 3svar 4 eru 12, þá set eg undir deilandann, og dreg þverstrik fyrir neden, segi nú: 12 frá 12 verdur eckert eptir, skrifa því 00 (null) nedan strikid, sem sýnir, ad 4 epli eru í hlut, en

enginn afgángur. Med Frádragningu kuñi þetta líka ad gjörast, þegar á vöru 3svar dregnir frá 12, en þad er miklu seinlegra.

## 25. Vetrar Vika.

Lídur á lærdóms-ydkana tímann, Börn góð! nú er vel hálfnadur Einmánudur, skjerdtar 2 vikur til Sumars; er yckur nú, til frekari æfingar og eptirþánka, ætlad næstu viku ad lesa um Tídina, og hennar himislegu skipti; takid vel eptir Því!

### Um Tídina.

Tídin er einhvor sú dýrmætasta gáfa Guds. Hún er manneskjunni veitt til framfara í gódu og gagnlegu, svo hún geti fyrir þad vordid fullkomnari, og hæf til sælu sídarmeir.

Tídinni er skipt í Aldir, Ár, Misseri, Árstídir, Mánudi, Vikur og Daga.

Ein Öld er 100 ára tími.

Í Ári reiknast 2 Misseri, Vetur og Sumar, en 4 Árstídir, sem eru: Vetur og Sumar, Vor og Haust; hvort Misseri er því helfingur, en hvor Árstíd fjórdúngur af Ári.

Einn Mánudur reiknast almennt 4 Vikur eda 28 dagar; verda þá 13 þvílíkir Mánudir í Árinu. Almanaks Mánudir eru einúngis 12, því þeir eru lengri, hafa 7 þeirra 31 dag, hinir 30, nema Febrúarius, sem hefir 3 ár samfleytt 28, en 4da hvort ár, sem kallast Hlaupár, 29 daga.

## Mánudirnir heita:

1.) JANUARIUS, eda Midsvetrar-mánudur, hefir 31 daga, med honum byrjast árid, hann

hálfnar veturinn. Fyrra part þeßa mánad er Brundtími saudfjár.

2.) FEBRUARIUS, eda Föstugángs-mánudr hefir 28 daga, og 1 betur á Hlaupári, búa karlmenn sig til fiskiveida í verstødum.

3.) MARTIUS, eda Jafndægra-mánudur, hi 31 daga, nú er vertíd vid sjó, og vorid byrj

4.) APRILIS, eda Sumar-mánudur, hefir daga, þá byrjar Sumar Mißirid, lengir da og minka opt frostharkur.

5.) MAJUS, eda Fardaga-mánudur, hefir daga, þá er unnid á túnum, sád til matur saudburdur hefst og fuglar verpa.

6.) JUNIUS, eda Nóttleysu-mánudur, hefir daga, þá er lengstur dagur, nú er plantad k rvid saudfje, lømbum:ært frá og rekin á afre

7.) JULIUS, eda Midsumars-mánudur, hefir 31 daga, þá eru dregin ad búfaung, flutt í sel, farid á grasafjall og byrjadur sláttur.

8.) AUGUSTUS, eda Heyanna-mánudur, hefir 31 daga, þá standa yfir heyannir, hyrdt tún og yrktar engjar.

9.) SEPTEMBER, eda Addrátta-mánudur, hefir 30 daga, þá enda heyannir, en byrjast Haust-id, gjörd fjallskil, hyrdtar maturtir.

10.) OCTOBER, eda Slátrunar-mánudur, hefir 31 daga, þá byrjar vetrar-miþirid, nú er færd myki á tún, slátrad búfje og börn byrja stofun.

11.) NOVEMBER, eda Ridtídar-mánudur, hefir 30 daga, þá er settst ad vid ullar-vinnu og hyrdtur búsmali.

12.) DECEMBER, eda Skammdegis-mánudur, hefir 31 daga, hann endar árid, þá er styttstur dagur en vøkur lengstar.

Ein Vika er sjø Dagar, er svo heita: Sunnudagur, Mánadagur, Pridjudagur, Midvikudagur, Fimtudagur, Føstudagur, Laugardagur.

Einn Dagur, eda Sólarhríngur, sem hjá oß reiknast frá Midnætti til Midnættis, er 8 Eyktir eda Dagsmørk, sem heita:

Midnætti, Otta, Midurmorgun, Dagmál, Hádegi, Nón, Miduraptan, Náttmál; hver Eykt er 3 Klukkustundir, eda 24 í sólarhríngnum; Ein klukkustund er 60 Minútur, og ein minúta 60 Sekúndur.

Merk: Stjørnufródir reikna daginn frá Hádegi til Hádegis daginn eptir.

## 26. Vetrar Vika.

Hana nú! sídasti viku-skamturinn er einúngis eptir, nuun yckur ecki hvad sizt takast med hann, svo endirinn verdi besiur, því fagnadarsælla verdur yckur Sumarid á Fimtudaginn kemur; þá fer bústadur ockar, Jordin, úr því ad taka uppá sig græna vidhafnar skrúdann sinn; gledi og gaman er til þess ad þenkja; vid fáum lika góda bendíngu um þad í efninu sem núna kemur.

### Um Jordina.

Jordin er falleg og furdu stór. Margfaldt stærri er hún, enn sjónhríngur sá, sem vid getum deilt med augunum. Skøpulag hennar er eins og hnattar eda hnoda, og hvad furdanlegast er, hún er

sífeldt ad snúast um í kríng, og fljúga fram og' aptur ílausu lopti. Mikid af Jardarhnettinum er þakid sjó og vøtnum, svo ecki er nema lakur einn þridjúngur hans þurrt land.

Menuirnir byggja á þurrlendinu, sem teljast ad vera þúsund milliónir, en hvør millión er þú, sundsinnum þúsund. Fiskurinn sveymar í sjó og vøtnum, en fuglinn fløgur í loptinu.

Á Jørdunni vex Gras, Urtir, Trje og allra handa ávextir, mønnum og skjepnum til margfaldra nota. Manneskjan neytir koras, jurta, aldina, mjólkur, kjøt- og fisk-matar, eggja, etc.; en skjepnurinn fódrast á grasinu.

Trjed er einn sá þarfasti ávøxtur, og ómißandi til húsabygginga, skipasmídis og margfaldra naudsynja áhalda.

Ur Jördunni fást Gimsteinar, svo sem: Demant, med hvorjum glerid er skorid, Rúbin, Saphír, etc. og Málmar, svo sem: Gull *), Sylfur, Kopar, Tin, Blý, Járn, og margar fleiri málm-tegundir, sem mennirnir brúka ser til þarfa, til prýdis, hægdar, verkfæra og varnar.

Demantinn er raraſti Gimsteininn, Gullid dýrmætasta Málm-tegundin, en Járnid allra naudsynlegast. Ur því er smídadur hnífurinn til ad borda med, skjærin ad klippa med, ljárinn ad slá med, og ótal fleiri naudsynja verkfæri.

---

*) Af medal Al-málma er Platína eda Hvítagull hid kostulegasta; þad er járni hardara, ordugra ad bræda og edlis-þýngra enn rauda Gullid. Sídan árid 1736, hefir þad fengist frá Perú í Sudur-Ameríku.

A Jördunni eru margar mishædir, svo sem: Fjöll, Heidar, Hálsar, Hólar og Hryggir. Fjöllin draga ad ser Skýin. Ur skýunum kemur Regnid, sem fellur yfir jördina henni til frjófgunar.

Fram um dalina milli fjallanna renna Elfur, Ar og Lækir, sem gefa gott vatn. Uppí Arnar gengur Lax og Silúngur úr siónum fram til sveita.

Upp úr hafinu standa storar Eyar, Hólmar og Skjer um alla jördina. Ein af þessum eyum er landid, sem vid byggjum, þad liggur nordarlega á hnettinum og heitir Island, hafdi, árid 1801, 47 þúsund, tvöhundr. og 7 innbúa, hvaraf 311 í Kaupstadnum Reykjavík; stórt er land þetta ad vísu, en þó ofurlítill partur af jördunni allri. Af því þad er umflotid af sió á allar sídur, kallast þad Eya, en í fornöld, þá er Naddoddur víkingur

fann þad fyrstur, nefndi hann þad Snæland, þar nærst hjet þad Gardarshólmur, og sídast Island.

Í sjónum er ótal margt fiskakyn; úr honum veidist: Þorskur, Ísa, Skata, Heilagfiski, Hrogn-kelsi, Steinbítur, Háfur, Hákall og margt fleira, ockur til lífs vidurhalds.

** ** **

Svona hefir gódur Gud dásamlega tilbúid jørdina; mikid hagur smidur má hann vera, mikid máttugur, mikid vís og mikid gódur; æ! látum ockur þykja ofurvænt um hann, lofum hann og þøck-um honum, og byrjum med því hugarfari Sumar-id á morgun, og syngjum þá med andakt Sálmin No. 257: Guds gædsku prísa, etc.

Merk: Varla mun nockru medal-gáfudu Barni verda afmarkadir Víkuskamtar ofsætlan, ef lag-lega er áhaldid, og þegar þau veturinn fyrir lært hefdu ad þeckja bókstafina af spjaldinu.

Hinum daufari verdur þá ad ætla minna, sitja aldrei lengi vid í einn, heldur minna opt á um daginn, en lítid í senn, því ydnin eykur alla ment, og dropinn holar steininn.

## Margfoldundar Tabla.

| | | |
|---|---|---|
| 9sin. 9 eru 81 | 8sin. 8 eru 64 | 7sin. 7 eru 49 |
| 8 — 9 — 72 | 7 — 8 — 56 | 6 — 7 — 42 |
| 7 — 9 — 63 | 6 — 8 — 48 | 5 — 7 — 35 |
| 6 — 9 — 54 | 5 — 8 — 40 | 4 — 7 — 28 |
| 5 — 9 — 45 | 4 — 8 — 32 | 3 — 7 — 21 |
| 4 — 9 — 36 | 3 — 8 — 24 | 2 — 7 — 14 |
| 3 — 9 — 27 | 2 — 8 — 16 | |
| 2 — 9 — 18 | | |
| 6sin. 6 eru 36 | 5sin. 5 eru 25 | 4sin. 4 eru 16 |
| 5 — 6 — 30 | 4 — 5 — 20 | 3 — 4 — 12 |
| 4 — 6 — 24 | 3 — 5 — 15 | 2 — 4 — 8 |
| 3 — 6 — 18 | 2 — 5 — 10 | 2 — 3 — 6 |
| 2 — 6 — 12 | 2 — 3 — 6 | 2 — 2 — 4 |

## Til Kénnenda.

Auk hinna einstöku ávísana, sem skíríngar-greinir, á fáeinum stödum í qverinu, gëfa um kénnslu-máta þess efnis, er þær heyra til, vil eg til frekari adgætslu og leidarvísirs þeim kjæru Foreldrum og Kénnendum, sem nota vildu þetta Stöfunar-qver, stuttlega greina, hvörnig eg hygg þad brúkad yrdi med bestu notum.

1.) Væri þad í öndverdu ósk-ráð, strax sem Börn fara bera kénnsli á og gëta

nefnt limina á sér og hlutina umkríng sig, þá undireins kenna þeim ad stafa til enna léttustu einsadqvædis-orda, t. d.: vildi foreldrid spyrja barnid: Hvad heitir þetta? þá um leid stafa fyri því hlutiñ, og láta þad hafa eptir, svo sem: hár hár, kinn kinn, hend hønd, háls háls, kné kné, tár tár, skyr, spónn, sleif, og fl., eptir atvikum lidkar þad bædi málfæri barnsins og rydur mun greidari veg til stöfunar á sídan af qverinu.

2.) Er ætlad svo til, ad Oktav-blad þad, sem Stafrofid er prentad á med stóru letri fremst í qverinu, verdi skorid út, og límt á eins stórt tréspjald, gefid

ſidan börnum vid og vid í hendur, ſvo ſem gërſemi, Þegar vel liggur á Þeim, en um leid, ætti ſýna Þeim Þar bók-ſtafina, og Þannig kynna Þeim Þeirra myndir og heiti; en ſem barnid væri búid læra ad Þeckja Þá nockurnveginn, ſkyldi Kennarinn ſýna Því fyrſt, og Þar eptir láta Þad ſýna ſér, á ſpjaldinu, ſtafina, er lœju til einhvørs ſmá-ords, ſem hann nefndi fyrir Því; ſpyrdi hañ, t. d.: hvørjir bókſtafir liggja Þarna til b ó k bók, q v e r qver, ſ p j a l d, o. ſ. f. ætti Þetta gjoraſt á Utmánudum vet-urinn ádur enn byrja ſkyldi ſtofun af ſjálfu qverinu veturinn eptir, Þó ecki fyrr eñ barnid væri $3\frac{1}{2}$ eda fullra 4 ára.

3.) Nú er byrjad á qverinu, þegar barnid er vel á 5ta ár komid; skyldi þá fyrst bera saman stafina á spjaldinu vid þá á qverinu, minna 3svar eda 4sinnum á dag hvørn, en aldrei láta dag úrfalla til Sumarmála, nema þoł ad eins, ad hid fyrisetta væri vel af hendi leyst.

4.) Fyrisagnir og skíríngar-greinir, sem fyrirkoma, eru einkanlega ætladar þeim, er kēña — sem optast eru bóndi og húsfreya — til gløggvunar, en ecki bornum, medan skilníng brestur, til stofunar. Annars er þetta Barna-gull frá upphafi til enda, ætlad bornum til fyrstu lestrar æfíngar, og ætti ecki yfirgefast, fyrr enn þau væru vel stautfær, og hefdu numid

innihaldid til hlýtar. Ur þvi mætti fá þeim í hendur Sumargjöf handa Börnum, Campes Sida-lærdóm og Sálar-frædi, Náttúruskodaranñ, Gallettis Kénnslubók og fl., sem allt eru ágætar, útvaldar Barna-bækur.

5.) Ad Qverinu er skipt í Viku-skamta, er ecki í þeirri veru, ad börn, yfir höfud, fái þvi aflokid á einum vetri, þó ecki se efandi, ad mörg gëfist svo gáfud, ad ecki yrdi þad ofvaxid; heldur ördfar þad lyst og alúd, þegar barnid veit fyrifram, hvörsu lengi þad á ad stafa eda lesa í einu, og hlackar þvi meir til frítímans á eptir.

Adal-reglunni: frá audveldara til þyngra, hefir eg med alúd fylgt í Bæklingsins logum, og varid til þeß lángri eptirtekt, athygli og erfidi, ad finnast henni trúr, rádfært mig vid reynsluna og Ritgjordir náfnfogadra inn- og út-lendra merkis-manna í Kénnslu-frædum, svo sem: G. Prófasts Pálssonar Støfunar-Barn, útkomid í Hrappsey 1782, Drs. A. H. Niemeyers Grundsætninger for Opdragelse og Undervisning, Peder Jensens, Prófessor K. L. Rahbeks og Prestsins P. Thonboes A B C og Læsebøger, og borid sídan verk mitt undir augu og álit yppursta Kénnenda og Lærdóms Framara í Landi voru, sem gáfu

Því góða raun og systu mig til þeß Utgáfu, hverja eg því dyrfist audmjúkast ad sela þeirra, og fleiri Valmanna, adhlynníngu og fylgi, til framqvæmda gódri ætlun og nytsemi þeirri, er vonast querid — eptir fyrilögdum reglum notad — geti til vegar komid medal Landa minna.

Framar vil eg þeß geta: ad hiñ fyrsti Hvatamadur fyrirtækis þeßa, var sá fjölfesni Gáfumadur, Bók-Faktor Hra. G. J. Schagfjord, sem sannfærdur um þvílíks Barna-qvers nytsemi, var í fritímum farinn ad leggja sjálfur hönd á verkid, og hvatti mig sídan til þeß framhalds; hefir þad nú legid undir þjel minni nockur ár.

Yrdi nú Tilraun þeßi svo heppin, ad ná Alþýdu hylli, er enn á reidum hondum Lestrar-qver, lagad handa Börnum, med sex Vísinda-brotum, sem þar eptir er skipt í 6 Vetrar-mánudi, svo sem framhald eda sjö deild qvers þeßa, 5 eda 6 arkir ad stærd.

Upplýsingin er vist dygdarinnar lukt og ljósberi, er þar bádar manneskjunnar fanni ádall; gjæri nú qver þetta tendrad litla Týru handa heñar ýngsta aldri, glæddi þad góda von um, ad med tídinni Ljós af yrdi, og þá væri gódu fyrir velmeint smak goldid.

Melum í Borgarfirdi, þ. 31ta Dec. 1816.

B. Arngrímsson.

